# Fꜳord
# Minningar-Vers,
## ÞEIRRAR
## Æruborna og Gudhræddu Heidurs Kvinnu
# Saal. Þoreyar Sigurdar Doottur.

Hver, ꜳ 51. Are sijns Aldurs, þañ 26. Novembris, Anno 1778. sætlega i DRottne, frꜳ þessu tijmañlega, til þess eilijfa Lioossens, burtkalladest; Og var heidurlega greftrud, þañ 1. Decembris, i syrgiande Nꜳunga og margra añarra heidurlegra Manna Hiꜳveru.

Framar af einlægum Vilia eñ oblugum Mætte uppsett,
af hennar Dygda Nafns einfoldum Elskara,

M. Einars Syne.

Med Lag.

Þier DRottenn þacka eg.

ÞEgar eg Heims um Hag, hugsa med Athygle, og margfaldañ Mædu-Dag, Mañsens ꜳ Jorduñe, Sanninde veit eg vera, hañs Lijf Barꜳtta sijfeld sie.

2. Lijfs þegar lijtur fyrst, Lioos Heims, Barn nijklaked, eins er og Eymda Vist, Ope og Tꜳrum med, sijna hier fyrer seige, sem og ad tijdum sannrætist.

3. Lijfed og Mæda Meins, mier synast Tvijburar, sem fædast under eins, einnig takmorkud var, Ending ꜳ einum Tijma, Grꜳtur er hier, eñ Gleden þar.

4. Fullur af Bloode og Brest, berst Madur Heimeñ i, Harmur og Hegning flest, ꜳ hverium Dege er nij, Ahyggia, Von og Otte, varla þar nockur frꜳ er frij..

5. Hier þo ad hreppe Mañ, Heidur, Glede og Seim, medkeña mꜳ þo hañ, Mæda og Erfide i Heim, er Lijf hañs, þo life gladur, blandad sijfeldum Sorgar Eym.

6. Hier meiga Herrañs Born, hella wt Tꜳrunum, hroopa um Hiꜳlp og Vorn, hryggiast af Sꜳrunum; Eñ þar skal eitt Siñ verda, Ending ꜳ Sorgar Arunum.

7. Þegar ad gioerer good, Gud, fyrer sælañ Deyd, Umskipte ꜳ Mædu og Mood, Meinum og allre Neyd, og leyser frꜳ hættum Heime, til Himens þeirra liggur Leid.

8. O hversu er um þꜳ breitt! Eilijft, fyrer stutta Tijd, erfa, af Eymdum þreytt, og epter þroted Strijd, krynast Dijrdar Koronu, Erfide Hvijlden fylger frijd.

9. Soddañ Umbreiting beid, Blooma reifd margskonar, Þ o r e y, sem Lijfsens Leid, lauk, D o o t t e r S i g u r d a r, Hiervistar hun ꜳ Skeide, fagra Kveñdygda Kransa bar.

10. Af goodre Ættar-Root, uppsprottna vitum hier, ypparlegt Ættar-Moot, æ synde hun ꜳ sier, eiñeñ Bloom Ættar siñar, maklega vijst hun metenn er.

11. Heilaga Hioona Stiett, hun ætijd prijda ried, Æru, Fremd, Elsku riett, einnenn Trwfeste med, ꜳstkiærra Egta-Manna, Hefd var, Korona og Hiꜳlpræded.

12. Afkvæmes Frama, Frægd, Fræding, Ogun og Ment stundade, heldst med Hægd, og hvad sem ad þvi feck þient, Soome og Sidferde besta, þvi iñrætast mætte og yrde keñt.

13. Hyllerijk, hoogvær, þæg, Hwss-Mooder ætijd var, gestrisen, glod, einlæg, Gedlempen, af þvi bar, Ynde, Hroosun, Alræme, Medal Kunnugra margstadar.

14. Brauds-Þurfa Braude med, Brauds Nꜳd æ hafande, sadde, og svala ried, sañre af Goodgyrne, fyrer hvad hun nu hlijtur, hiꜳ Drottne Verdlaun i Dijrdeñe.

15. Sinnesprwd, sidartug, sijn Verk igrundade, af innsta Hiarta og Hug, HErrañs Ord stundade, Bæn-heit, klock, bliwg, ydrande, Skeided Lijfdaga skundade.

16. Þegar ꜳ Foldu frijd, hiñs Fioorda Tugar Þriw Ar, lifad hafde Lund-þijd, og Lijfed bloomlegast stꜳr, Krossburdar Mædu Merke, Brioostsens Tilfinning synde sꜳr.

17. So Fimtugs Aldre ad, Æfennar Glased rañ, magnadest Meined þad, og Mꜳttvana Lijkamann, droo ort ad Dauda Rwme, þvi Krossenn Ovægur kremia vann.

18. Siwkdoomsens furdu fast, Fiotrar ꜳ ymsañ Hꜳtt, reirdust, so Raun ei brast, rett bæde Dag sem Nꜳtt, Fimtandu vijst ꜳ Viku, Sorga fiell Regn wr allre Att.

19. Um Krossburdar talda Tijd, Tꜳren þꜳ ruñu Osp ord; Sꜳlar ad sefa Strijd, Sꜳlar af dijrstum Vord, tveimsiñum nestast nꜳde, med þijdre Andagt og Þackargiord.

20. Loksens kom Lausnar Stund, Loks brustu Mædu Bond, Loksens læknadest Und, Loksens so heñar Ond, leid upp til Lioossens Hæda, sett vid Brwdgumañs hægre Hond.

21. Ad Hormungen hæfe þꜳ, Hrygder og Neyden flest, jafnañ, sem Jordu ꜳ, JEsum hier elska mest, og daglega Dygdum safna, ꜳ hennar Dæme sannad siest.

22. Tꜳra takmarkad Hlaup, Tꜳra hieldt gegnum Dal, Tꜳra nu tæmt er Staup, Tꜳr meir ei fella skal, Tꜳr þerrar, Tꜳr sꜳ fellde, so Tꜳruger gistu Glede Sal.

23. Sterkre Bæn strijdde med, sterka Von aldrei brast, i sterkre Trw styrkiast ried, sterkum hieldt Gude fast, sterkum studdest af Krapte, sterk i Neyd liet ei hugfallast.

24. Heñar Sꜳl Hvijld og Roo, hlaut Jesu Brioostum ꜳ, nær Lijfs ad Dagsetre droo, og DRottne nu hvijler hiꜳ, hvijld af Erfide ollu, Hvijld med Guds Foolke hun ried sꜳ.

25. Horfen er Hrygdar Mind, horfen Veikenda Tijd, horfen Sꜳr, horfen Synd, horfen oll Mootgꜳngs Hrijd, horfed allt Hiartans Angur, horfeñ Daude og Heliar Strijd.

26. Allskyns umvafen Værd, vidskilen Mædu Bond, af Lijfsens Eik lijka nærd, lioomar nu heñar Ond, dryckiud Vellystar Vijne, hiꜳ JEsu Guds Sonar hægre Hond.

27. Uppfyllt Nægd Yndæles, eilijft hafande Skiool, sann-heilagt Sigur Vers, syngur hiꜳ Lambsens Stool, og med Utvaldra Skara, fagnande lioomar fegre Sool.

28. Heñar um eilijf Ar, aldreige lijdur Rijrd, alls Nægd og Unun klꜳr, Ynde, Fognudur, Dijrd, er hier af eingum Manne, wt verdur tolud eda skijrd.

29. Sof nu af Sorgum frij, med Sigre laukst Æfe-Slood, Guds Barna Akre i, uns til hanns Lwdurs Hliood, ytstu vid Alda Skipte, voldugt, Alheims upp vekur Þiood.

30. Þꜳ mijn Þiꜳningar Tijd, þrijtur hier eitthvert Siñ, mijns Dauda mijke Strijd, minn JEsu, Daude þiñ, Ond leysta, Englar frijder, ꜳ Hondum sier bere i Himeniñ.

## Graf-Skrift.

HJer sefur andad Hold, HErrañs sem Markteikn bar, vært, huled vijgdre Mold, vel-nefndrar Þ o r e y a r, sællrar S i g u r d a r D o o t t u r, Mustere Guds sem mætast var.

Þar til ad þesse Old, þrijtur, enn tekur vid, onnur, þꜳ Glede Giold, hiꜳ Guds Sonar hægre Hlid, hrepper med hærstum Sooma, Sꜳlen Lijkama samteingd vid,

Þu Madur ꜳ Lijfs Leid,
Lijttu til hvert þitt Skeid,
Stefner, þvi ad giord greid,
Grofen er, sem þijn beid,

Ydran yfir Brot breid,
Bw þig under þiñ Deyd,
Sꜳlar fordast so Neyd,
Eñ Sælan heppnast margþreyd.

Prentud ꜳ Hoolum i Hialltadal, af Gudmunde Jons Syne. 1781.

